#  Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

15. árg. WINNIPEG, JANÚAR 1901. Nr. 11.

## Aldamótateikn.

Ný öld er byrjuð. Nítjánda öldin er dáin. Og á sama augnabliki sem hún skildi við fæddist dóttir hennar — tuttugasta öldin. þessi nýbyrjaða öld er að sjálfsögðu enn þá eins og ungbarn, sem hvílir í vöggu sinni, ungbarn, sem stórmiklar fagnaðarríkar vonir eru við festar. Og samfara þeim vonum eru bœnir út gangandi frá óteljandi trúuðum sálum í öllum áttum heims, víðsvegar í hinum jarðnesku mannabyggðum, til guðs almáttugs, hins kærleiksríka föður aldanna, um það, að honum megi þóknast, að láta hina frelsandi náð sína í ríkum mæli streyma yfir þetta unga barn sitt, öldina nýfæddu, líf þess yfir höfuð, en um fram allt yfir höfuð þess og hjarta.—Hvað eigum vér að hugsa um hina nýju öld? Hvers megum vér vona henni viðvíkjanda? Skyldi hún í því, er mestu máli skiftir fyrir mannkynið, verða sannarleg framfaraöld? Skyldi það, sem eitt er nauðsynlegt, sáluhjálparmál kristindómsins, á næstu hundrað árum fá vaxanda vald yfir hjörtum almennings? Skyldi sigrvinningar kristinnar trúar halda áfram? Skyldi ríki Jesú Krists fœrast út í heiminum, svo mikið fœrast út, að hitt stórveldið, sem því er gagnstœtt, fari að sama skapi minnkanda? Eða skyldi vantrúin og heiðindómrinn fá í sig enn þá meira vöxt, svo mik-

inn, að enn minni verði líkurnar fyrir því, að kristindómrinn fái þar viðnám veitt?

Þegar fyrirrennari frelsarans, Jóhannes skírari, var ungbarn, við það hátíðlega tœkifœri, er honum var gefið nafn, þá var spurt: „Hvað mun sveinn þessi verða?" Allir óskuðu hins bezta þá. Allir vonuðu góðs af þeirri barnsfœðing, því guð var þar sjálfr með á meir en vanalegan hátt. Og nafnið, sem barninu nýfœdda var gefið að guðlegri tilhlutan, gat verið mönnum bending um það, að þetta barn væri fyrirfram ákvarðað til einhvers mikils. Því nafnið Jóhannes merkir gjöf guðs. Allt fyrir það voru menn þó yfir höfuð í óvissu barni þessu viðvíkjandi og báru efasamir fram spurninguna um það, hvað sveinninn myndi verða. En Sakarías, faðir barnsins, svaraði spurningunni, innblásinn af anda guðs, með þessum orðum, stýluðum til ungbarnsins: „Og þú, sveinn, munt kallast spámaðr hins hæsta, því þú munt verða fyrirrennari drottins til að gjöra hans vegu greiða" o. s. frv. (Lúk. 1, 76).—Og þegar að því er spurt, hvað ungbarnið sérstaka, sem allir eru nú um að hugsa, hin nýbyrjaða öld, eigi að verða, þá má alveg víst heyra hinn gamla spádóm Sakaríasar í aðalefninu endrtekinn sem svar upp á þá spurning. Gamla öldin, móðir þessarar nýju, nítjánda öldin, sem dó um leið og dóttir hennar, tuttugasta öldin, fœddist, ber spádóminn endrtekinn fram. Hin liðna, látna öld talar enn. Hún talar frá gröf sinni. Og eitt hið allra helzta, sem þaðan heyrist, eru orð guðlegrar fullvissu um það, að barnið hennar nýfœdda, öldin þessi nýbyrjaða, muni í alveg fram úr skaranda skilningi ryðja frelsaranum braut inn í mannheiminn jarðneska, til fleiri og fleiri einstaklinga og þjóðflokka um öll lönd.

Hugsum um öldina liðnu. Rifjum upp fyrir oss fáein atriði í sögu hennar. Berum saman útlitið í heiminum eins og það var við upphaf hennar við útlitið eins og það er nú við þessi síðustu, nýafstöðnu aldamót. Það þykir að ýmsu leyti skuggalegt nú. En margfalt skuggalegra var það um næstu aldamót á undan. Stjórnarbyltingin hræðilega á Frakklandi hafði þá fyrir skömmu brotizt út. Og eitt hið voðalegasta í þeim skelfingum var það, að öll guðstrú var þá með allsherjar

lagaboði afnumin af einni stórþjóð, hinni frakknesku, sem á þeirri tíð skipaði öndvegi meðal hinna menntuðu þjóða heimsins. Og þó að það vantrúaræði stæði ekki lengi, þá var þó trúarástandið svo bágborið á eftir, hjá öllum þorra fólks, allra helzt hinna heldri manna, höfðingjanna, að virðast mátti, að kristindómrinn hefði verið særðr til ólífis. Til þess að minna á stjórnmála-ástandið í heiminum í byrjan nítjándu aldarinnar þarf að eins að nefna eitt nafn — Napóleon Bónaparte. Þótt hann væri nálega tilbeðinn eins og guð af löndum sínum, þá var hann þó í raun og veru hinn mikli biksvarti skuggi á himni sögunnar, er grúfði yfir menntaþjóðum heimsins og fyllti sálir óteljandi manna í öllum áttum angist örvæntingarinnar — ár eftir ár og áratug eftir áratug meðan hin blóðuga sigrfrægð hans entist. Á þessum hræðilegu heimstáknum bar svo mikið þá, að nálega einskis annars gætti. Engu að síðr var þó einmitt um sama leyti að renna upp blessuð öld, bezta öldin, sem mannkynssagan veit af að segja síðan á postulatíðinni. Og þegar vér komumst svo að orði um þessa síðustu öld, þá erum vér ekki að eins um það að hugsa, hve stórkostlega heiminum hefir farið fram í veraldlegu tilliti, í atvinnumálum, alþýðumenntan, vísindum, íþróttum, o, s. frv., þótt það óneitanlega sé svo mikið, að undrum sætir, meira en á nokkurri annarri öld áðr, meira en á þeim öllum saman lögðum. Og vér erum ekki fyrst og fremst um það að hugsa, heldr um annað enn þá meira, enn þá gleðilegra. Vér erum aðallega að hugsa um vöxt og viðgang kristninnar, hina óðfluga útbreiðslu guðs ríkis, á nítjándu öldinni. Öldin þessi seinasta var um fram allt kristniboðsöld. Það er fegrsta einkennið á henni. Engin önnur öld, sem liðið hefir yfir heiminn frá því á dögum fyrstu kynslóðarinnar kristnu, hefir neitt þvílíkt sér til ágætis. Kristniboð meðal heiðingja frá hálfu prótestantisku kirkjuflokkanna á undan öldinni síðastliðnu er svo lítið, að þess gætir nálega ekki. En eftir að nítjánda öldin er í garð gengin fæðist nýtt og nýtt kristniboðsfélag víðsvegar um lönd kirkjunnar nálega með hverju líðanda ári. Og í aldarlok eru erindsrekar þessara félaga starfandi í hinum

ýmsu heiðingjalöndum á fjórum þúsundum aðal-missíónarstöðva; en aukastöðvar þar til heyrandi taldar til fjörutíu þúsunda. Segja má með sönnu, að árangrinn sýnilegi af þessari starfsemi kristinnar kirkju sé minni, jafnvel miklu minni all-víða, en óskanda væri. En yfir höfuð að tala er hann þó gleðilega mikill. Meðal annars heilir þjóðflokkar komnir inn í mannkynssöguna, og orðnir þar starfandi, sem áðr voru eins og dauðir og grafnir í yztu myrkrum hins óskaplegasta villudóms. Og fyrir þann árangr, sem kristniboð aldarinnar hefir haft, vonin allt af sívaxandi hjá öllum, sem að þeim málum hafa staðið, um meiri og meiri eftirtekju í ókominni tíð.

Samhliða kristniboðinu meðal heiðingja er að minnast biblíufélaganna, sem stofnuð hafa verið á liðnu öldinni í öllum prótestanta-löndunum. Er þar öllum fremr að geta hins brezka og erlenda biblíufélags, sem svo er kallað. Það var stofnað árið 1804 og hefir síðan stöðugt verið að breiða heilaga ritning út á hinum ýmsu tungumálum þjóðanna, menntuðu þjóðanna og villiþjóðanna, þangað til að útgáfurnar eru nú við þessi aldamót orðnar nálega óteljandi. Hin afar mikla útbreiðsla biblíunnar bæði frá hálfu þessa félags og hinna mörgu annarra, er fetað hafa í þess fótspor, hefir að sjálfsögðu orðið starfi kristniboðanna til ómetanlegs stuðnings. Af þessum öðrum biblíufélögum, sem segja má að fæðzt hafi út af hinu brezka og erlenda, skal hér að eins nefnt ameríkanska biblíufélagið, sem komst á fót árið 1816. Í sambandi við þessi tvö helztu biblíufélög hins kristna heims, hið brezka og hið ameríkanska, standa ein 16 þúsund minni félög, sem í aðalefninu vinna að hinu sama, útbreiðslu heilagrar ritningar. Hin tvö stórfélög, er þegar voru nefnd, hafa til samans síðan þau urðu til gefið út ekki minna en 250 milíónir binda af biblíunni. Brezka biblíufélagið hefir gefið biblíuna eða stóra parta af henni út á meir en 300 tungumálum, og hið ameríkanska á 80 tungumálum.

Þá er og „innri missíónin" svo kallaða eitt stórvægilegt atriði kristindóms-starfseminnar í nútíðinni. Hún miðar að því að reisa þá aftr við, sem heima fyrir, innan hinna kristnu

mannfélaga hafa fallið frá trúnni á Jesúm Krist, lent í siðspilling og guðleysi, — boða þeim orð sáluhjálparinnar og með því kveikja nýtt líf í sálum þeirra og koma þeim aftr inn í hóp Jesú lærisveina. Líka sú tegund kristniboðsins er aðallega upp runnin á síðustu öldinni og nú orðin ákaflega viðtœk og þýðingarmikil í flestöllum prótestanta-löndunum. það sérstaka kristniboð sneri sér fyrst nálega eingöngu að fólki á lægsta stigi mannfélagsins. En eftir því, sem tímar liðu fram, fœrði það sig út upp á við, þangað til það undir aldarlokin síðustu er líka að stórum mun farið að ná til lærðu mannanna og menntalýðsins á hinum œðri skólum landanna. því vitanlega er stúdenta-félagskaprinn kristilegi, sem svo mikið ber nú á í brezka ríkinu, í Bandaríkjunum, í þýzkalandi, á Norðrlöndum og víðar, ekki annað en ein grein af innri missíón aldarinnar síðastliðnu. En sú grein er stórkostlega dýrmæt. því auðsætt er, að eftir að kristindómsandinn er farinn verulega að ráða yfir menntuðu mönnunum í hinum ýmsu stéttum, þá muni margfalt hœgra en áðr fyrir kirkjuna að varðveita og styrkja alþýðu í kristinni trú. Í byrjan nítjándu aldarinnar heyrði það til tízkunni meðal heldra fólksins hér í Norðr-Ameríku að vera trúlaus eða því sem næst. En nálægt 1820 fór þetta að breytast. Kristin trú hófst þá til meiri virðingar í áliti menntalýðsins hér, og sú virðing hefir í rauninni stöðugt farið vaxandi í þeirri átt. Í Danmörk og þeim öðrum löndum, sem Ísland hefir helzt staðið í sambandi við í menntunarlegu tiliti, gekk þetta miklu seinna. Vantrúar-aldan, sem streymdi yfir þjóðlíf vort frá Kaupmannahöfn kynslóð eftir kynslóð á síðustu öld, er alkunnug. En áðr en öldin endaði er líka þar á hinum hærri stöðum kristindómrinn viðrkenndr og virtr, og áhrif þeirra skoðanaskifta þegar farin að ná til Íslands, sem meðal annars kemr fram í því, að nú má þó benda þar á menntaða menn í veraldlegum embættum, jafnvel hinum œðri, þótt ekki sé margir, sem ekki álíta það fyrir neðan sig að hlynna að kirkjunni og taka málstað kristindómsins opinberlega bæði í rœðu og riti.

Ekki má heldr gleyma sunnudagsskóla-starfseminni, sem

nú er haldið uppi víðsvegar í löndum prótestanta, lang-helzt þó hjá Bretum og Ameríkumönnum. Líka þar er einn ljómandi ávöxtr, sem aðallega hefir sprottið fram á trúarlífsakri kristinnar kirkju á nítjándu öldinni. Svo hefir aftr sunnudagsskólinn getið af sér hinn ýmiskonar ungmenna-félagskap innan kristinna safnaða, þar á meðal bandalögin lútersku, sem líka eru í síðustu tíðinni, en þótt í miklum veikleika sé, búin að ná sér niðri í kirkjulífi Vestr-Íslendinga. Vér getum nú naumast hugsað oss kristinn söfnuð sunnudagsskólalausan. Svo sterkt hald er sú stofnan kristindómslífinu til eflingar búin að ná á almennings-meðvitundinni á þessari tíð. En þá ber þess að minnast, að vafalaust miklu meiri hluti þeirra, er kenna í þeim skólum, er kvenfólk. Og að mörgu öðru leyti eru konur, yngri og eldri, orðnar með í hinni kristilegu starfsemi, og sumsstaðar greinilega á undan karlmönnunum. Ekki að eins kvenfélög í flestum söfnuðum, þar allsstaðar sem kirkjan, eins og hér, er sjálfstjórnandi, óháð ríkinu, heldr líka margr stór-víðtækr kvenfélagskapr víða, sem stefnir í þá átt að útbreiða guðs ríki. Það spáir meir en litlu góðu, að kvenþjóðin kristna er farin að eiga svo mikinn beinan þátt í sögu guðs ríkis víðsvegar um lönd.

Líknarstarfsemi aldarinnar liðnu hefir farið sívaxandi. Hún er nú orðin svo víðtæk, að undrum sætir, þegar borið er saman við ástandið í menntalöndum heimsins fyrir hundrað árum. Vitanlega er það ekki kirkjan, sem heldr allri þeirri starfsemi uppi, mjög fjarri því, en hitt er víst, að hún er að lang-mestu leyti af kristilegri rót runnin, annaðhvort beinlínis eða óbeinlínis ávöxtr fagnaðarboðskaparins um Jesúm Krist.

Kærleiksbandið milli trúaðra manna í hinum ýmsu kristnu kirkjuflokkum hefir þrátt fyrir allt, sem á milli ber, aldrei áðr í sögunni verið eins sterkt og nú við þessi síðustu aldamót. Sérkenni flokkanna hafa ekki verið þurrkuð út. Trúarjátningarnar gömlu haldast óbreyttar og eru hafðar í heiðri. En af því að meiri áherzla hefir verið lögð á sannkristið líf en jafnaðarlega á hinum fyrri öldum, hefir í augum kristins fólks meir gætt þess, er allir lærisveinar Jesú hafa sameiginlegt

hver með öðrum í játning trúarinnar, en afbrigðanna á trúarjátningum þeirra.

Þegar liðna öldin dó, skildi hún dóttur sinni, hinni nýfœddu öld, allt þetta, sem nú hefir verið talið, og margt fleira dýrmætt, eftir í arf. Ungbarnið, nýja öldin, á nú öll þessi miklu gœði í eigu sinni. Það spáir meir en litlu góðu um það, hvað úr barninu muni verða, eða hvernig nýja öldin muni leiðast út.

Aldamóta-teiknin eru, að því er kristindóminn snertir, stórkostlega fagnaðarrík.

Oss öllum er óhætt að ganga inn í tuttugustu öldina vonglöðum og sigri hrósandi í Jesú nafni.

---

## Tvennskonar dísir.

Eftir séra VALDEMAR BRIEM.

Að Hofi' í fyrndinni Hallr bjó
með horskum sonum í spekt og ró;
en elztr Þiðrandi þeirra var,
af þeim og öðrum hann sveinum bar.
Hann hraustr var, en við barn hvert blíðr,
hann bráðger var, en í háttum þýðr,
að yfirlitum svo hýr og hreinn
og hverjum fríðari yngissveinn.

Eitt haustboð mikið að Hofi var
og Hallr gestavon átti þar.
Að vetrnóttum var veizlan gerð,
en veðr hamlaði margra ferð.
Þá gekk á stormum og grimmum hríðum,
er gesti hindra svo oft og tíðum;
og ýmsum reynist það oft um megn
þeim ofsaveðrum að berjast gegn.

Eitt veizlukvöldið, er kyrrð var á,
því komið fátt var af gestum þá,
kvað gamall þulr: ,,Ei nokkur nú
í nótt út gangi; mín spá er sú,
að af því muni þeir meingerð hljóta,

er móti boði því reyna' að brjóta."
því játtu flestir og fóru skjótt
að fá sér hvíld, þegar dimmdi' af nótt.

Og fast menn sofnuðu utan einn,
hinn ungi þiðrandi, prúðr sveinn ;
hann næstr dyrum í dyngju lá,
og dúr ei kom honum neinn á brá.
Hann heyrði náttkalda niðinn hvína,
er nóttin þuldi þar harma sína ;
og tunglið gægðist um gluggann inn
með glotti feigðar á refilinn.

þá heyrðist barið þar högg á dyr
og hurðir knúnar sem aldrei fyr,
og aftr heyrðust þar úti högg
og enn í þriðja sinn, skýr og glögg.
Hann gleymdi banninu, grand eigi' uggði,
hann gesti föður síns komna hugði,
og þegar spratt hann á fœtr fljótt,
að fagna gestum um miðja nótt.

Hann gekk út skjótt, og sinn skjóma bar,
og skyggndist um, hvað hann sæi þar ;
en úti sá hann þar engan mann,
og allt var bjart þó í kringum hann ;
því þá var haustveðr hreint með frosti,
og honum þótti sem nóttin brosti,
en eitthvað kynlega' og kalt mjög þó,
og köldum hrolli' um hann allan sló.

Sjá, máninn hátt þar á himni stóð
og horfði dapr á auða slóð,
var stundum rauðr sem storkið blóð,
en stundum fölr hann skýin óð.
Og það var ömurlegt allt að líta
þar yfir jörðina bera' og hvíta.
þá hugði' hann aftr að hverfa inn
og hvíld að taka sér fyrst um sinn.

En þá í norðrinu heyrði' hann hvin,
þar hófa þóttist hann kenna dyn.
Hann leit til norðrs og níu sá
þar nornir biksvörtum fákum á.

Þær sýndust allar á svörtum klæðum,
og sverðum brugðu þær voða-skœðum.
Þær sóttu honum í svipan að,
og sár hann skjótt fékk af bitrum nað.

Þá hvína suðrinu heyrði' hann í,
þar hófa þóttist hann kenna gný.
Hann níu dísir úr suðri sá
þar svífa fannhvítum jóum á,
og búnar skínandi björtum gerðum
þær brugðu leiftrandi geisla-sverðum.
Þær veittu sveininum sárum lið
og svörtu dísirnar börðust við.

Svo lengi háðu þær hildi þá,
en hvítu dísunum vannst ei á;
því eigi komin var enn sú tíð,
að ynni ljósið við myrkrið stríð;
og enn þá mátti sín myrkrið svarta
þó meir en skínanda ljósið bjarta.
Og bjarti sveinninn fékk banasár
og bleikr hneig hann að jörðu nár.

Oft falla hlýtr hið fagra' að grund
um fríða œskunnar morgunstund.
Oft sannleikrinn má lúta lágt,
er lygin reisir upp kambinn hátt.
Hið góða víst mun þó sigra' um síðir,
og seinna koma þær betri tíðir.
Og oft, er myrkrið sér hreykir hæst,
er hjálpin vísust og ljósið næst.

Og þannig var og í þetta sinn,
ei það var lokaðr himininn;
og ljósið himneskt í vændum var,
en vofur myrkranna kraftlausar.
Og heiðnin loks var úr landi rekin,
í landið aftr var kristni tekin.
Þá svörtu dísirnar lutu lágt,
en ljósu dísirnar risu hátt.

---

Nú síðan liðin er öld af öld
og ótal kvöld eftir þetta kvöld;
en enn vér lítum þá sömu sýn,

á söguhimni þá bjarminn skín.
Og níu aldir oss nú að baki
á níu dísir oss minna taki.
Úr tímans djúpi þær svífa' í senn
og sjónum vorum þær birtast enn.

En þessar dísir, oss nú svo nær,
þær níu, hvað er að segja' um þær?
Og hvort er allt saman orðið bjart,
er áðr forðum var dimmt og svart?
Hvort bjartar sýnast ei drottins dísir,
er dýrðleg kristnin um frónið lýsir.
Nei, dökkar voru þær dísir títt
og dimmir skuggar um landið frítt.

Hjá aldadísum var fátt um frið
í fornum heiðnum og kristnum sið.
Þær börðust sífellt, og berjast enn,
þær björtu' og svörtu um landsins menn.
Þótt sólin blessuð úr suðri rynni
og sigr frægan á myrkrum ynni,
um bjartan daginn þó dimmir oft
og dregr ský upp á heiðríkt loft.

Og margir finnast hér ungir enn
og efnilegir og góðir menn,
er svörtu dísirnar setjast að
og særa banvænum eitr-nað.
Þótt ljósu dísirnar lið sitt bjóði,
það liggr margr í sínu blóði.
Svo margir foreldrar misstu son
og margra glataðist bezta von.

Það heyrist barið enn högg á dyr
og hurð er knúin sem aldrei fyr.
Þú ungi maðr, nú upp rís fljótt,
þótt enn þér sýnist um miðja nótt.
Ei eins og Þiðrandi þú skalt falla,
því það er guð, er þú heyrir kalla,
en eins og Samúel sigr fá,
er sjálfr kallaði drottinn á.

Nú enn þá lítum vér *aldamót*,
nú illra hverfa skal dísa blót,

þær níu dísir með norna brag
til Niflheims flýja hinn bjarta dag.
En aðrar bjartar úr suðri sveima
á sólar vængjum um alla heima,
með sverðum skínandi sannleikans
og sigr-hertýgi lausnarans.

## Biblíufræðin nýja.

Eftir séra Björn B. Jónsson.

I. SÖGULEGT YFIRLIT.

Prestaskólakennari séra Jón Helgason hefir á síðustu missirum í blaði sínu ,,Verði ljós!" og á annan hátt gjört sér mikið far um að útbreiða meðal landa sinna þekking á því, sem kallað hefir verið ,,Hinar nýju vísindalegu biblíu-rannsóknir". Hefir hann viljað telja mönnum trú um, að úti í menntaða heiminum hvervetna sé ,,allir hinir trúuðustu og ágætustu vísindamenn" fallnir frá þeirri gömlu kenning, að öll ritningin sé innblásin af guði og sé óskeikult guðs orð. Hann hefir leitazt við að sýna fram á, að mikið sé um ,,þversagnir" og ,,mótsagnir" í biblíunni og að þessi trúarbók kristinna manna sé mjög ófullkomin og að ýmsu leyti óáreiðanleg. Þannig sé gamla testamentið sumpart gamalt þjóðsögusafn Gyðinga, en sumpart sögu- og lagasafn frá miklu seinni tíma en þau hafa verið talin til. Bœkrnar, sem kenndar eru við Móses, eiga alls ekki að vera samdar af honum og hafa ekki orðið til fyrr en einum þúsund árum eftir daga Mósesar. Fullkomnum innblæstri biblíunnar er neitað, en þó sagt, að í henni innan um mannaorðin sé all-mikið af guðs orði, og vísi trúarmeðvitund einstaklingsins honum á það.

Hér fyrir vestan hefir framkoma séra Jóns Helgasonar í þessu máli orðið til að hneyksla fjölda fólks, og hefir mörgum verið það stórt sorgarefni, að einmitt sá maðrinn, sem vinir kristindómsins væntu svo mikils góðs af, skyldi snúast þannig á móti einum aðal-lærdómi ,,orþodoxu" kirkjunnar. Og lakast af öllu er, að þessi háttvirti kennimaðr hefir einatt verið mjög óvarkár með staðhœfingar sínar og sagt þau tíðindi af

,,biblíurannsóknunum" í öðrum löndum, sem ekki eru sönn, og er það ósamboðið jafn-menntuðum og góðum manni sem hann er.

Línur þær, sem hér fara á eftir, eru ritaðar í þeirri von, að þær geti orðið til leiðbeiningar einhverjum, sem bágt á með að átta sig á þessu nýja máli, en ekki til að deila við nokkurn mann.

* * *

þessi nýja alda, sem nú ríðr að ströndum Íslands og kölluð er ,,biblíurannsókn" (á ensku *Higher Criticism*, á þýzku *die hohere Kritik*= hærri kritík), er ekkert ný eða óþekkt alda úti á stórhöfum nútíðar-menntunarinnar, því þetta mál hefir verið eitt aðal-umtalsefni guðfræðinganna seinustu tuttugu árin. Úti á heimshöfunum er aldan nú einmitt farin að hjaðna all-víða, þegar hún loks rís við strendr Íslands. Alda þessi hin mikla hefir sínar eðlilegu orsakir. Hún er afleiðing af því mikla róti, sem komið hefir á öll andlegu stórvötnin á síðustu tíð. þessi alda rannsóknar og gagnrýnis hefir náð til lang-flestra greina vísindanna, veraldlegra og andlegra. Hún hefir náð til bókmennta, sagnfræði, heimspeki, þjóðmegunarvísinda og stjórnfræði. Eftir að hún hafði komið róti á öll önnur fræði hóf hún sig með miklu afli á sjó guðfræðinnar. Allsstaðar reyndist hreyfing þessi mjög öfgafull, þótt hún hafi haft margt gott í för með sér, en hvergi hafa fjarstæður hennar verið eins gífrlegar eins og í guðfræðinni.

Í sjálfu sér er auðvitað öll biblíurannsókn mjög nauðsynleg, og í sjálfu sér er hún ekkert annað en rannsókn á uppruna og eðli ritanna í biblíunni. Hún gengr út á að grennslast eftir, hverjir hafi samið ritin, hve nær, undir hverjum kringumstæðum og í hvaða tilgangi. Slík rannsókn, ef rétt er meðfarið, getr ekki annað en orðið til góðs, með því hún hjálpar mönnum til að skilja betr og meta meir hin helgu rit. Engin hætta er bókum heilagrar ritningar í rauninni búin, því allar réttvísar rannsóknir hafa staðfest gildi þeirra. Biblían hvílir á því bjargi, sem enginn fær bifað.

En biblíurannsóknin, ,,hærri kritíkin", hefir á síðustu tíð gengið út í verstu öfgar, gengið út á það eitt að rífa niðr og

vefengja rit biblíunnar, ,,svo nafnið sjálft (hærri kritík) er orðið til hneykslis alvarlega hugsandi mönnum", segir *dr. Green*, hinn víðfrægi kennari við Princeton-háskólann. ,,þessa nútíðar-biblíurannsókn má skoða sem einhverja verstu tegund vantrúarinnar og allir eiginlegleikar hennar eru fjandsamlegir sannleiksopinberaninni", segir sami maðr í formála fyrir einni bók sinni. Og einn merkr íslenzkr frœðimaðr hefir komizt svo að orði: ,,Sú stefna, sem einkennir sig með nafninu ,,hærri kritík", þýðir í meðvitund manna nú sem stendr sama sem *vísindaleg vantrú.*"

Sögu biblíurannsóknanna nýju mætti skifta í tvo þætti. Yrði þá saga nýja testamentis rannsóknanna í fyrra þættinum, en gamla testamentis rannsóknanna í síðara partinum.

þrjár aðferðir hafa einkum verið viðhafðar til að sópa burt öllu yfirnáttúrlegu og guðlegu, sem kirkjan hefir á öllum öldum tileinkað nýja testamentinu. (1) Fyrsta aðferðin er aðferð þýzku skynsemistrúar-postulanna Eichhorns, Paulusar og annarra, sem reyndu til að gjöra náttúrlega grein fyrir öllu, er áðr var talið yfirnáttúrlegt. (2) Önnur aðferðin er aðferð Voltaires og hans nóta, sem algjörlega neituðu trúverðugleik nýja testamentis ritanna, ætluðu höfundum þeirra hafa gengið illt eitt til með að semja þau og báru þeim á brýn hrœsni og tál. (3) þriðja aðferðin er hin ,,hærri kritík." Hún hefir látið sér mest annt um það að sanna, að rit nýja testamentisins sé ,,óekta", sé ekki samin af þeim mönnum, sem þau eru kennd við. Baur (d. 1860) og lærisveinar hans við nýja Tybingen-skólann (Zeller, Schwegler, Hilgenfeld, Volkmar o. fl.) vefengdu öll rit nýja testamentisins nema opinberunarbókina, og bréf Páls postula til Galata, Korinþumanna og Rómverja. Allt hitt sögðu þeir vera falsrit frá annarri öld. Seinni frœðimenn Tybingen-skólans hafa samt kannazt við, að öll Páls bréfin sé ,,ekta", að undanteknum þremr eða fjórum. Strauss, lærisveinn Baurs, sneri ,,rannsóknunum" aðallega að guðspjöllunum. Mest hefir í því sambandi verið deilt um guðspjall Jóhannesar. Fyrir fimmtíu árum sagði De Wette: ,,Ekkert hefir rannsókn nýja testamentisins staðfest betr en það, að sé Jóhannes höfundr guðspjallsins og pistl-

anna, þá hefir hann ekki samið Opinberunarbókina; en hafi hann samið Opinberunarbókina, þá er hann ekki höfundr guðspjallsins og pistlanna." Schleiermacher og „skóli" hans eignaði Jóhannesi postula guðspjallið og pistlana, en neitaði, að hann væri höfundr Opinberunarbókarinnar, og sú kenning var ráðandi hjá hinni „hærri" rannsókn um miðbik aldarinnar. Svo varð hin gagnstœða skoðan ofan á, skoðan Tybingen-skólans, að Jóhannes væri höfundr Opinberunarbókarinnar, en ekki guðspjallsins og pistlanna. Þetta er sýnishorn af því, hvernig er til skiftis flóð og fjara hjá vísindum vantrúarinnar." (Meira).

---

Að kvöldi sunnudagsins milli jóla og nýárs hélt sunnudagsskóli Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg árslokahátíð sína með samskonar fyrirkomulagi og að undanförnu hefir tíðkazt. Samkoman var mjög fjölmenn. Kirkjan var í skrautbúningi sínum frá því á jólanóttina og ljósin með lang-flesta móti. Jólaskrautið allt, sem látið var haldast í kirkjunni þangað til á þrettánda, var kostað af sunnudagsskólanum.

Á eftir vanalegum *introitus* (sálmasöng úr kveri séra Valdemars Briem, biblíulestri [23. Davíðs sálmi], bœn, glorία, hallelúja, þessu tvennu síðasta með nýju tónlagi) voru þessi númer á hátíðarprógramminu:

1. Barnasálmr („Sterki drottinn, styrk oss auma"—þýðing Sigurðar J. Jóhannessonar) sunginn af skólanum öllum.—2. *Recitation*: „Jesús blessar börnin" úr Biblíuljóðum V. Br.: Ung stúlka —3. Kvöldsöngr („Af klukknahljómi kirkna er"—eftir Ingemann, þýðing Jóns Runólfssonar): Drengir nokkrir og stúlkur.—4. Barnabœn („Ó, faðir, gjör mig lítið ljós" eftir Mattías Jokkumsson) sungin af tveim smástúlkum.—5. Upplestr: „Brosið" (saga). Stúlka.—6. Ávarp frá presti safnaðarins, forstöðumanni sunnudagsskólans.—7. Söngr: „Fuglinn á grein"—þýðing úr þýzku eftir Jón Runólfsson: Allir. 8. *Recitation*: „Þú, sem önd mín er svo kær"—hinn frægi enski sálmr *Jesus, lover of my soul* í þýðing Jóns Runólfssonar: Stúlka.—9. Söngr: „Eg hef' vorfugls vængi borið"—þýðing úr norsku eftir V. Br.: Drengir.—10. *Dúet*: „Sólarlag"—eftir Benedikt Gröndal: Stúlkur.—11. Ávarp frá séra Rúnólfi Marteinssyni.—12. Söngr: „Hvert er farin hin fagra og blíða?"—eftir Gísla Brynjólfsson: Stúlkur og drengir.—13. Söngr: *Child Jesus came from heaven to earth*: Allir.

Forstöðumaðr skólans minnti á öldunginn Símeon, er hann hélt á hinu heilaga ungbarni í faðminum í Jerúsalems musteri, blessandi. Og um leið á gamla árið og nýja árið. Blessan frá gamla árinu komandi yfir hið nýja. Þar væri markmið verks þess, sem verið væri að vinna í sunnudagsskólanum. Börnin, framtíðarkynslóðin, ímyndir **nýársins**,

með blessan drottins yfir sér frá eldri kynslóðinni, fullorðna og aldrhnigna fólkinu, kennurum skólans. —Séra Rúnólfr talaði um fegrð söngsins, sérstaklega þess söngs, er hann nú hefði heyrt, og hin mörgu kristilegu menntunar-tækifæri, sem nú byðist æskulýðnum, og hvatti stúlkurnar og drengina til að nota þau vel í Jesú nafni.

---

Miðnætr-samkoman í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg á nýársnótt síðustu var hátíðleg, þótt ekki væri hún margbrotin. Hefir aldrei áðr eins margt fólk verið í kirkjunni við það tækifæri. Fundu víst allir til þess, að sú stund var háalvarleg og heilög, sem yfir þá leið þar í guðs húsi, þá er hin tvö ár og hinar tvær aldir mættust. Á undan þeim tímans punkti var sunginn sálmrinn: „Seg þakkir guði góðum", 145. Davíðs sálmr lesinn, svo og 2. Pét. 3, 8—13, og bæn fram flutt. En síðar —á fyrstu mínútum nýja ársins og nýju aldarinnar—las prestr safnaðarins upp ljóð þau hin fögru eftir séra Valdemar Briem, er prentuð standa í blaði þessu. Voru þau upphaflega af höfundinum ætluð „Aldamótum" X, en komu ekki fyrr en prentan þeirra var lokið. Einnig var við þetta tækifæri lesinn upp sálmrinn mikli enski *Rock of Ages* í þýðing séra Mattíasar Jokkumssonar, þeirri, sem „Verði ljós!" kom með í fyrra.—Eftir að menn höfðu óskað hver öðrum blessunar drottins á þessu fyrsta ári aldarinnar voru sungin tvö síðustu vers nýárssálmsins: „Nú árið er liðið í aldanna skaut".

---

Ritgjörð séra Björns B. Jónssonar um „biblíufræðina nýju", sem byrjar í þessu „Sam."-blaði, verðr víst af mörgum vandlega lesin og af sumum að minnsta kosti mjög vel þegin Svo langt sem hún nær skýrir hún málið ágætlega. En þetta er að eins byrjan. Hann heldr máli sínu áfram í nokkrum ritgjörðum, er „Sam." síðar kemr með. Séra Björn var til þess neyddr að taka til máls úr því „Verði ljós!" réðst eins óvægilega á skoðan hans á heilagri ritning og það hefir gjört í ritdómi sínum um innblástrs-fyrirlestr hans í „Aldamótum". Hefði séra Björn engu svarað, né neinn annar, sem sömu eða líka skoðan hefir, mátti ætla, að sú hlið málsins hefði engin rök fyrir sig að bera og stæði uppi algjörlega varnarlaus. Væntanlega þykir og vini vorum séra Jóni Helgasyni betr að tekið er til að ræða málið einnig hér hjá oss Vestr-Íslendingum, þó að ekki sé honum allir samþykkir. Því auðsætt er, að hann hefir gjört sér mjög mikið far um að koma því á dagskrá hvervetna í kirkju þjóðar vorrar.

Vér erum nú ekki þeirrar skoðunar, að rétt hafi verið að gjöra þessa tegund biblíufræðinnar að slíku aðal-máli í kirkjulegu alþýðublaði eins og gjört hefir verið í „Verði ljós!" En úr því að svo er komið sem komið er, og úr því að tvær eru hliðar á því máli, þá dugir ekki, að að eins annar málspartrinn hafi orðið. Og af því að skorað hefir verið á ritstjóra „Sam." að láta líka til sín heyra um ágreiningsefni þetta, þá býst hann við að segja eitthvað í þá átt síðar, ef guð lofar.

---

Samtalsfundir þeir, sem auglýstir voru í síðasta blaði „Sam.", voru eins og til stòð haldnir um áramòtin: í kirkju Selkirk-safnaðar (28. Des.), í Fyrstu lút. kirkju í Wpeg (1. Jan ) og í kirkju Argyle-safnaðanna (3. Jan.). Umtalsefnið hið sama á öllum stöðunum: *ferminġin*. Fundirnir allir fremr vel sóttir og hluttaka leikmanna í umrœðunum á tveim hinum síðast nefndu meiri en oftast áðr við slík tœkifœri, einkum á Argyle-fundinum (þar töluðu víst einir tólf manns). En prestarnir voru fáir, sumir forfallaðir sökum sjúkleiks, að eins tveir aðkomnir í Selkirk (séra Jòn J. Clemens og séra Jón Bjarnason) tveir í Wpeg (séra Steingrímr Þorláksson og séra J. Cl.) og einn í Argyle (séra Stgr. Þ.). Inngangsrœðuna í Selkirk hélt séra Jón Bj., en séra Stgr. í Wpeg og Argyle, og birtist rœða hins síðar nefnda væntanlega í næsta blaði. Vafalaust skýrðist fermingarmálið fyrir fólki ekki svo lítið við umrœður þessar.

---

Séra Friðrik J. Bergmann dvelr síðan milli jóla og nýárs í Phelp's Sanatorium í Battle Creek, Michigan, til þess að reyna að fá þar heilsubót. Því heilsa hans tók aftr stórkostlega að bila í haust, sem leið. Til allrar hamingju líðr honum nú miklu betr en áðr en hann fór að heiman, svo tilraun þessi virðist ætla að heppnast. Og þess óskum vér, vinir hans og samverkamenn, og biðjum hjartanlega til drottins.

---

Hjá ritstjòra „Sam." fást nú íslenzkar biblíur og nýja testament frá enska biblíufélaginu. Biblían kostar $1.45, nýja testamentið 60 cts.

---

Hr *Jón A. Blöndal*, 567 Elgin Ave., Winnipeg, er féhirðir „Sam."

---

Hr. *Magnús Pálsson*, 309 Elgin Ave.. sendir „Sam." út.

---

„EIMREIÐIN", eitt fjölbreyttasta og skemmtilegasta tímaritið á íslenzku. Ritgjörðir, myndir, sögur, kvæði. Verð 40 cts. hvert hefti. Fæst hjá H. S. Bardal, J S. Bergmann o. fl.

---

„ÍSAFOLD", lang-mesta blaðið á Íslandi, kemr út tvisvar í viku allt árið; kostar í Ameríku $1.50. Halldór S. Bardal, 557 Elgin Ave., Winnipeg, er útsölumaðr

---

„VERÐI LJÓS!"— hið kirkjulega mánaðarrit þeirra séra Jóns Helgasonar og Haralds Níelssonar í Reykjavík — til sölu í bókaverzlan Halldórs S. Bardal. í Winnipeg og kostar 60 cts.

---

„KENNARINN", mánaðarrit til notkunar við kristindómsfrœðslu barna í sunnudagsskólum og heimahúsum; kemr út í Minneota, Minn. Árgangrinn, 12 nr., kostar að eins 50 cts. Ritstjóri séra Björn B. Jónsson. Útg. S. Th Westdal.

---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS, — WINNIPEG.